# Ég sá mömmu kyssa jólasvein

Útgefandi: Prentsmiðja Jóns Helgasonar

[illegible]
Baltasar



# Krummi, krakkarnir og jólin

# TOMMI TRÚÐUR

**(Lag: Ég heiti Kristín Jósefína Páls)**

Ég heiti Tommi og trúður er,
sem talsvert er mikill vandi.
Ég var sendur hingað, segi ég þér,
úr sjálfu Leikfangalandi.

Kóngurinn sjálfur sendi mig
og seinna greiðann þakkar.
Ég átti að fara og finna þig
og fjasa við ykkur, krakkar.



# SVONA ER KRUMMI

**(Lag: Fyrr var oft í koti kátt)**

Nefið mitt er soldið svart.
Svona er ég í framan.
Skapið mitt er býsna bjart,
að börnum finnst mér gaman.
Að kveða um þau kvæðin löng
kann nú enginn betur.
— Ég hef ekki svona söng
sungið fyrr í vetur.

Krunk og krunk og krunkkrunkkrá.
Krunkar nokkur meira?
Vilja einhver ykkar fá
um mitt flug að heyra?
Yfir landið allt ég þaut,
áfram svona og svona.
Í Borgarfirði bauð mér graut
bústin heiðurskona.

Þau, sem kíkja krumma á,
Kalli, Jón og Halla,
syngja núna eftir á
um hann vísu snjalla.
Krummavísur kunnið þið
og kannske sitthvað meira,
og seinna reyndar syngjum við
saman þær og fleira.



# HANN KRUMMI ER KÁTUR

**(Lag: Hann Lubbi, ja, sá var nú sætur)**

Hann krummi er kátur og vitur
og kann líka fádæma margt.
Hann er fimur og fallega litur.
— Mér fer alltaf vel svona svart.

Hann situr á samkvæmisklæðum
og syngur af prýði og list.
Svo heldur 'ann helling af ræðum
og hamast í framsóknarvist.

Í sjónvarpið syngur hann kvæði,
sem eru nú hreint ekkert rugl.
Já, krummi í orði og æði
er afburða vandaður fugl.



# KRUMMI OG SÆNGIN

**(Lag: Women)**

Með sængina mína ég sveif yfir land,
en svo tók að rigna og allt fór í strand.
En til þess að bleyta ekki biksvartan væng,
þá breiddi hann yfir sig gæsadúnssæng.
    Krunk, krunk
    og krá,
    krunk, krunk
    og krá.
En til þess að bleyta ekki biksvartan væng,
þá breiddi hann yfir sig gæsadúnssæng.

Svo beið ég nú þarna í bleytu og sút,
og blessaður góði, ég leit varla út.
Loks kom þó einn geisli og kyssti hans nef,
og kallaði: ,,Jæja, þig vakið ég hef!''
    Krunk, krunk
    og krá,
    krunk, krunk
    og krá.
Loks kom þó einn geisli og kyssti hans nef,
og kallaði: ,,Jæja, þig vakið ég hef!''

Og sængina breiddi ég sólinni mót
og sáldraði fiðri um þúfur og grjót.
Að tína það saman var töluvert stapp,
en tókst þó að lokum — og það var nú happ.
Krunk, krunk
og krá,
krunk, krunk
og krá.
Að tína það saman var töluvert stapp,
en tókst þó að lokum — og það var nú happ.



# KAROLÍNA KRUMMAFRÆNKA

(Lag: Ef hjá honum pabba . . .)

Hún Karólína frænka mín var kát og bjó í fjalli
og krummastelpa engin fannst, sem væri henni lík.
— Ástæðan til þess, að ég er hér að þessu spjalli,
er aðallega ferðin hennar suðrí Reykjavík.

Hún flaug af stað um morgun, í feikilegu roki,
já, fimm var klukkan einmitt, — og þetta er alveg satt.
Og festur var um háls á 'enni flauelsöskupoki
með fjórtán varafjöðrum, og þar geymd'ún líka hatt.

Mót storminum hún baksaði og stóð sig hreint með sóma.
Í Stykkishólmi hvíld'ún sig loks ofurlitla stund.
Hjá bónda efst í Kjósinni var boðið upp á rjóma,
og blessunin hún Karolína varð nú hress í lund.

Svo flaug hún yfir sundin með fimum vængjaslætti,
og framundan þá sá hún alla Reykjavíkurborg.
Hún sveimað'yfir höfnina, en seinast flugi hætti
og settist inn í strætisvagn, er stóð við Lækjartorg.



Þar lét 'ún hatt á kollinn og lagaði sig alla,
og laumaði í hvelli tveimur fjöðrum í sitt stél.
En viti menn! Er Karólína var þetta að bralla,
þá vatt sér þar inn bílstjórinn og ræsti sína vél.

Karólína fór þá loksins kjarkinn sinn að missa,
því kynjamikill undirgangur heyrðist bílnum í.
Hún flaug svo út úr vagninum í fáti, hrædd og hissa,
og flýtti sér að komast upp í loftin blá á ný.

— — —

Já, aldrei mun hún Karólína upp í strætó læðast,
ellegar í farartæki manna yfirleitt.
Og ef þeir vilja, krummarnir, um ökuþóra fræðast,
er af og frá að Karólína segi um það neitt.



# BRÚÐUHJÓNIN

**(Lag: Ain't she sweet)**



Brúðan mín
er bæði stór og ósköp fín,
og hún ber af öðrum brúðum hérlendis,
brúðan mín.

Bangsi minn,
bangsi minn er stærri en þinn,
þú ert allra bezti bangsi á landinu,
bangsi minn.

Nei, líttu á!
Þau labba saman!
Ja, það má sjá
að þetta er gaman.
Brúðhjón
borða hvorki fisk né grjón,
og ég býst ei við að búi á landinu
betri hjón.

# ÉG HLAKKA TIL

(Lag: Kasper, Jesper og Jónatan)

Ég hlakka til að hlaupa út
í hlýjuna og vorið,
og lítir þú einn labbakút,
sem léttur greikkar sporið,
þá er það ég að fara á fjöll
og finna bæði álfa og tröll,
því farið ég get hvaða ferðir, sem er:
Ég er fimm ára síðan í desember.

Mig langar til að leggja af stað
á laugardaginn kemur,
sem orðið getur, auðvitað,
ef okkur mömmu semur.
Svo fæ ég brauð í bakpokann,
— en bræður mínir eiga hann —,
því farið ég get hvaða ferðir, sem er:
Ég er fimm ára síðan í desember.

Já, upp á fjallsins efstu brún
í einum spretti þýt ég,
og yfir bæi, engi og tún
að ofan síðan lít ég.
Svo tylli ég mér á tryggan stað
og tek upp nesti og borða það,
því farið ég get hvaða ferðir, sem er:
Ég er fimm ára síðan í desember.

Að kvöldi, þegar kem ég heim
og kyssi mömmu og pabba,
þá sezt ég við að segja þeim
hve sælt það var, að labba.
Ég hlakka til að hlaupa á fjöll
og hlusta þar á álfa og tröll,
því farið ég get hvaða ferðir, sem er:
Ég er fimm ára síðan í desember.



# SUNNUDAGUR VIÐ TJÖRNINA

**(Lag: Diana)**

Siggi fór á sunnudag
með sælubros í ferðalag.
Líkt og ótal önnur börn
arkaði hann niðr'að Tjörn.
— Úr poka sínum piltur bauð
prúðum andahjónum brauð.

Þau voru ekki sein á sér,
en syntu, eins og vera ber,
beint þangað, sem brauðið var,
og byrjuðu sína máltíð þar.
En Siggi henti óðar út
öðrum jólakökubút.

Tók nú að færast fjör í leik,
því fleiri endur syntu á kreik,
fundu þarna framreiddar
fallegustu kræsingar,
og mat vildi engin missa af,
þótt margar færu á bólakaf.

En — samvinnan hjá svona þjóð
er sennilega ekki góð,
því árekstrar og uppþot tíð
angruðu þennan Tjarnarlýð.
Um brauðmolana börðust þær
bæði fjórar, þrjár og tvær.

— — —

Úr bréfpokanum búið var
og brátt komst ró á endurnar.
En Siggi, hann gekk glaður heim
og gefur bráðum aftur þeim.
Með sælubros á sunnudag
sér hann nýjan andaslag.



# SIGGI SUNDGARPUR

(Lag: Ef hjá honum pabba . . .)

Ég heiti Siggi Guðmundsson, varð sjö ára um daginn,
og syndi á hverjum degi með þeim Kristjáni og Rút.
Bringusundið kann ég, og við baksund er ég laginn,
en bæði ég og Stjáni verðum samt að hafa kút.

Viðlag:
Sei, sei, sei, þetta er Siggi sundgarpur,
sei, sei, sei, þetta er Siggi sundgarpur.

Einu sinni um daginn þá var afskaplega gaman,
og allir voru buslandi og æptu svo í kapp,
en maðurinn, sem kennir okkur, kallaði alla saman.
Við komum upp að barminum í einum stórum hnapp.

Svo áttum við að fara þversum yfir og til baka,
anda rétt og synda bæði jafnt og fallega.
En ólánið vill stundum vera að elta mig og þjaka,
enda þótt ég fari jafnan hægt og rólega.

Þegar ég var kominn svona þrjá til fjóra metra
og þóttist nærri viss um að ég hefði þetta af,
þá tapaði ég plastinu. — Svo tók ekki við betra:
Ég týndi af mér kútnum, já, og fór í bólakaf.

Ég sökk til botns og byrjaði að verða dálítið hræddur,
og bjóst nú kannske við að komast ekki fljótt til lands.
En kennarinn, hann steypti sér þá út í alveg klæddur,
og innan skamms þá gripu í mig sterkir armar hans.

Hann dró mig upp á bakkann. Ég var dasaður og lúinn,
en Dóri og Stjáni sögðust mundu fylgja mér strax heim.
Kennarinn, hann sagði þeim að kennslan væri búin,
og kvað það alveg nauðsynlegt ég fylgdist burt með þeim.

En samt skal ég nú ljúka við að læra vel að synda,
og láta ekki framar koma svona fyrir mig,
því eftir þetta námskeið þarf ég aldrei kút að binda,
og allir hinir sundgarparnir mega vara sig.

# GULUR KASSABÍLL

(Lag: Yellow Submarine)

Viðlag:
Við gerum út í gulum kassabíl,
gulum kassabíl,
gulum kassabíl.
Við gerum út í gulum kassabíl,
gulum kassabíl,
gulum kassabíl.

Bak við hús á Bíldudal
búum við út merkisgrip:
Fínan bíl, sem fljóta skal,
fiska meir en önnur skip.
Taka þúsund tonna köst,
trylla bæði skúm og fýl.
Já, við ökum út í Röst
inn í gulum kassabíl.

Og á landi ætlum við
undireins í næsta fjörð,
ferðast um með fagurt lið:
Fimmtán manns — og heiðursvörð.
Afi segist ætla með
öllum þessum krakkaskríl,
og hann muni finna féð
fljótt úr gulum kassabíl.

En í haust við leggjum lóð,
líka nokkur gömul net.
Verðum fljót að safna í sjóð
og setja spánný aflamet.
Hvort við siglum út á sjó
eða suðrí Andakíl,
aldrei leiðist okkur þó
inn í gulum kassabíl.



# GULUR KASSABÍLL

(Lag: Yellow Submarine)

Viðlag:
Við gerum út í gulum kassabíl,
gulum kassabíl,
gulum kassabíl.
Við gerum út í gulum kassabíl,
gulum kassabíl,
gulum kassabíl.

Bak við hús á Bíldudal
búum við út merkisgrip:
Fínan bíl, sem fljóta skal,
fiska meir en önnur skip.
Taka þúsund tonna köst,
trylla bæði skúm og fýl.
Já, við ökum út í Röst
inn í gulum kassabíl.

Og á landi ætlum við
undireins í næsta fjörð,
ferðast um með fagurt lið:
Fimmtán manns — og heiðursvörð.
Afi segist ætla með
öllum þessum krakkaskríl,
og hann muni finna féð
fljótt úr gulum kassabíl.

En í haust við leggjum lóð,
líka nokkur gömul net.
Verðum fljót að safna í sjóð
og setja spánný aflamet.
Hvort við siglum út á sjó
eða suðrí Andakíl,
aldrei leiðist okkur þó
inn í gulum kassabíl.



# JÓLAKVEÐJA ÚR GRINDAVÍK

**(Lag: I'm looking over a for leaf clover)**

Sævar og Bína
og Sigurlína
þar suður í Grindavík,
send'ykkur kveðju
og syngja nú með,
já, dæmalaust geta þau
dansað við tréð.
Þar situr hún amma
og svo kemur mamma
og sú er af kökum rík.
Sævar og Bína
og Sigurlína,
þau syngja í Grindavík.

En úti yfir sæinn
og inn í bæinn
við örkum á jólakvöld.
Frá húsi að húsi
við hendumst í kapp,
og þarna er hann Fúsi,
með fallegan hnapp.
Að afhenda pakka
til allskonar krakka
er ánægja þúsundföld,
því út yfir sæinn
og inn í bæinn
við örkum á jólakvöld.

Má ykkur bjóða
marga og stóra
mola í höndina?
Einn er hér rauður
og annar er grænn.
Ja, þvílíkur auður,
— nei, þessi er vænn!
Og skelfing er gaman
að skoð'ykkur saman.



— Sko kjóllinn með röndina!
Má ykkur bjóða
marga og stóra
mola í höndina?

## JÓLASVEINNINN KEMUR Í KVÖLD

**(Lag: Santa Claus is coming tonight)**

Nú hlustum við öll
svo hýrleg og sett,
ekki nein köll
því áðan barst frétt:
Jólasveinninn kemur í kvöld!
Hann arkar um sveit
og arkar í borg,
og kynjamargt veit
um kæti og sorg.
Jólasveinninn kemur í kvöld!
Hann sér þig, er þú sefur,
hann sér þig vöku í,
og góðum börnum gefur hann
svo gjafir, veizt'af því?
Nú hlustum við öll
svo hýrleg og sett,
ekki nein köll
því áðan barst frétt:
Jólasveinninn kemur í kvöld!

Með flautur úr tré
og fiðlur í sekk,
bibbidíbe
og bekkedíbekk.
Jólasveinninn kemur í kvöld!
Og brúður í kjól,
sem bleyta hvern stól,
flugvélar, skip og fínustu hjól. —
Jólasveinninn kemur í kvöld!



Og engan þarf að hryggja,
því allir verða með,
er börnin fara að byggja sér
bæ og þorp við jólatréð.
Hæ! Nú hlustum við öll
svo hýrleg og sett,
ekki nein köll
því áðan barst frétt:
Jólasveinninn kemur í kvöld!

## JÓLASVEINNINN MINN

**(Lag: Must be Santa)**

Hver hefur skrítið skegg og mjótt?
Þú hefur skrítið skegg og mjótt.
Hver fer í hús um helga nótt?
Þú ferð í hús um helga nótt.
Skeggið mjótt, helga nótt,
það er jóla —
það er jóla —
það er jólasveinninn minn.

Hver hefur arkað ótal fjöll?
Þú hefur arkað ótal fjöll.
Og hver er nú sá, sem þekkir tröll?
Þú ert nú sá, sem þekkir tröll.
Þekkir tröll, ótal fjöll,
skeggið mjótt, helga nótt,
það er jóla —
það er jóla —
það er jólasveinninn minn.

Hver hefur alveg eldrautt nef?
Þú hefur alveg eldrautt nef.
Hver fær víst aldrei, aldrei kvef?
Þú færð víst aldrei, aldrei kvef.



Aldrei kvef, eldrautt nef,
þekkir tröll, ótal fjöll,
skeggið mjótt, helga nótt,
það er jóla —
það er jóla —
það er jólasveinninn minn.

Hver kom hér inn í krakkafans?
Þú komst hér inn í krakkafans.
Hver vill nú ólmur iðka dans?
Þú vilt nú ólmur iðka dans.
Iðkar dans, krakkafans,
aldrei kvef, eldrautt nef,
þekkir tröll, ótal fjöll,
skeggið mjótt, helga nótt,
það er jóla —
það er jóla —
það er jólasveinninn minn.





# KOMINN ER SVEINKI (Lag: Á Hóli var bóndi . . . .)

Ég kom o'naf fjöllum og klofaði snjó,
og kalt var mér stundum á enni.
En fremst upp á dalnum hún Freygerður bjó
og funheitt var kaffið hjá henni.

Viðlag:
Gleðileg jól!
Gott var að fá þig!
Já, kominn er Sveinki, og kveður sinn brag.
Hann kom hérna inn til að sjá þig.

Svo kvaddi ég hana með kossi á nef
og kvaðst ekki göngunni fresta.
,,Sem betur fer,'' sagð'ún, ,,ei bílinn ég hef,
en blessaður, taktu þér hesta.''

Ég ofan í sveitina ánægður reið,
með úttroðinn poka við hnakkinn.
Á bæina alla svo lagði ég leið,
— þá lifnaði við margur krakkinn.

Einn karlinn, hann sagði: ,,Þú kemur nú inn,
færð kaffi og hangikjötsbita.''
,,Nei, það má ég alls ekki, Þorlákur minn,
og það hljóta allir að vita.''

En austur á Hellu, þar hitti ég pilt,
sem hestvagn mér lánaði stóran.
,,Nú ekurðu kerrunni eins og þú vilt,''
og upp í mér lyfti, — svo fór hann.

Að Selfossi komum við síðla í gær.
Þá var sungið í kirkju við ána.
— Á brúnni varð klárinn minn öldungis ær,
en yfir þó fór ég með Grána.



Ja, bratt er í Kömbum og brautin var hál,
þar biluðu aktygjahengslin.
Og eftir að hafa nú afgreitt það mál,
þá ók ég til baka og — fór Þrengslin.

Loks kom ég í bæinn, með kerru og hest
og kynstur af stóreflis pökkum.
Og ykkur var, held ég nú, ætlað það flest,
þessum indælu, fallegu krökkum.

## ÉG SÁ MÖMMU KYSSA JÓLASVEIN

**(Lag: I saw mommy kissing Santa Claus)**

Ég sá mömmu kyssa jólasvein
við jólatréð í stofunni í gær.
Ég læddist létt á tá
til að líta gjafir á.
— Hún hélt ég væri steinsofandi Stínu dúkku hjá.
Og ég sá mömmu kitla jólasvein
og jólasveininninn út um skeggið hlær.
Ja, sá hefði hlegið með,
hann faðir minn, hefð'ann séð
mömmu kyssa jólasvein í gær.

